ÖREIGAR ALLRA LANDA SAMEINIST!

LIFI MARXISMINN-LENINISMINN-HUGSUN MAOS TSE TUNGS!

# Stéttabaráttan



MÁLGAGN KOMMÚNISTAFLOKKS ÍSLANDS M-L

15. tbl. 5. árg. 1976.

Við útgáfu Stéttabaráttunnar sem hálfsmánaðarblaðs er mikilvægt að handrit berist tímanlega til ritnefndar. Því mun framvegis verða tilkynnt í blaðinu útgáfudagur næsta blaðs, og skilafrestur handrita.
Næsta blað kemur út þriðjudaginn 8 september, en skilafrestur handrita er til 3. september.
-/ritnefnd.

## Burt með skatta á láglaunafólki

Þær auknu skattbyrðar sem skattskráin í ár boðar að lagðar verði á íslenska alþýðu hafa vakið mikla reiði og óánægju meðal almennings. Fólk vill ekki sætta sig við kerfi sem leggur þungar byrðar á þá sem minnst mega sín í þjóðfélaginu í efnahagslegu tilliti en sleppir stórframkvæmdamönnum og bröskurum. En hin almenna andstaða fólks gegn skattakúguninni nú eins og undanfarin ár beinist ekki í neinn ákveðinn farveg heldur er ómarkviss og stefnulaus. Hér er um sjálfsprottna hreyfingu að ræða sem skortir stefnufestu og forystu. Þetta hafa lýðskrumarar stjórnmálaflokkanna hagnýtt sér. Öll dagblöðin með tölu hafa tekið upp í leiðurum nauðsynina á því að skattakerfinu sé breytt og komið í veg fyrir "skattsvik". En fylgir þar hugur máli? Við skulum minnast þess nú þegar Þjóðviljinn rífur sig hásan yfir óréttlæti skattalaganna, að á tímum Vinstri stjórnarinnar viðgekkst sama óréttlætið. Þá kom Alþýðubandalagið ekki í gegn neinum veigamiklum endurbótum á kerfinu enda þótt það gegndi lykilstöðu innan ríkisstjórnarinnar.

Og við skulum muna nú þegar Mbl. og Tíminn tala um nauðsyn breytinga að þær tillögur sem komið hafa fram á þingi um endurskoðun á skattakerfinu hafa alltaf verið kæfðar af Sjálfstæðis- og Framsóknarflokknum.

Reynslan sýnir okkur að við getum ekki treyst borgaraflokkunum til að breyta einu eða neinu til hagsbóta fyrir alþýðu landsins Hér verður að koma til skelegg barátta alþýðunnar sjálfrar.

Þær raddir sem undanfarið hafa heyrst í málgögnum þessara flokka stafa eingöngu af hræðslu lýðskrumaranna við óánægju almennings. Um leið og skattamálin falla í skuggann fyrir öðrum stórmálum verða allar hugmyndir um raunverulegar breytingar lagðar til hliðar.

### Tillögur Alþýðuflokksins

Alþýðuflokkurinn hefur líkt og Alþýðubandalagið reynt að flagga róttæku andliti í stjórnarandstöðunni. En reynsla ísl. alþýðu af svikum þessa flokks og síðast en ekki síst 12 ára stjórnarþáttöku með íhaldinu afhjúpar þann blekkingarvef sem Alþfl. reynir að hjúpa sig til að dylja auðmjúka þjónkun sína við afturhaldið.

## 21. ágúst: INNRÁSINNI Í TÉKKÓSLÓVAKÍU MÓTMÆLT

Laugardaginn 21. ágúst sl. stóð Kommúnistaflokkur Íslands m-l fyrir mótmælaaðgerðum fyrir utan sendiráð Sovétríkjanna í Reykjavík. Tilgangur aðgerðanna var að minnast þess að 8 ár eru liðin síðan Sovétríkin réðust inn í Tékkoslovakiu og að vekja athygli á því, að enn er landinu haldið niðri af sovéskum herstyrk sem baktryggir fasiska ofbeldisstjórn. Líka var bent á að Sovétríkin eru í dag fasískt heimsvaldaríki sem svífst einskis í baráttu sinni fyrir heimsyfirráðum, og alþýða Íslands hvött til að herða baráttuna gegn risaveldunum og stríðsundirbúningi þeirra.

Á fundinum héldu þeir Gunnar Andrésson, formaður KFÍ/ML, og Sigurður Jón Ólafsson, ræður. Kristján Guðlaugsson söng nokkur lög, og borin var upp til samþykktar mótmælayfirlýsing sem afhenda átti sovéska sendiherranum en enginn kom til dyra í sendiráðinu, svo hún var sett inn um póstlúgu. Í lok fundarins var alþjóðasöngur verkalýðsins sunginn.

Fundurinn heppnaðist með ágætum, og sóttu hann um 100 manns. Á bls. 2 er mótmælayfirlýsingin birt í heild sinni




## Vestfirskir útgerðamenn hunsa gildandi samninga

Félagsdómur hefur nú úrskurð að að gert skuli upp við þá félagsmenn Farmanna- og fiskimannasambandsins, sem vinna á fiskiskipum, skv. samningunum frá 1. mars sl. Einnig segir í dómnum að enginn kjarasamningur sé nú í gildi milli þessara félagsmanna FFSÍ og LÍÚ. Þessi úrskurður dómsins sýnir glögglega að hann tekur hagsmuni útgerðarmanna fram yfir réttlætiskröfur sjómanna og þýðir því lítið fyrir sjómenn að vænta sér neins stuðnings úr þeirri átt. Augljóslega er með honum einnig stefnt að því að þvinga sjómenn til að samþykkja smánarsamninga þá sem undirmenn á fiskiskipum greiða atkvæði um þessa dagana.

Vestfirskir sjómenn, en þeir sögðu ekki samningum sínum lausum og falla því ekki undir fyrrnefndan dóm, hafa nú mátt bíða í allt sumar eftir fullnaðar uppgjöri. Útgerðarmenn þar hafa virt gildandi samninga að vettugi og hafa borgað 28,2% hlut í stað 32% sem sjómönnum ber. Sjómenn hafa hins vegar ekki skrifað undir fullnaðaruppgjör og liggja því stórar fúlgur sem réttilega eru eign sjómanna í vösum útgerðarmannanna.

Og hvað skyldi nú forysta Alþýðusambands Vestfjarða hafa gert í málinu? Jú, Pétur Sigurðsson, formaður sambandsins, hefur upplýst að þeir séu að bíða eftir niðurstöðum dóms í prófmáli sem þeir hafa höfðað gegn einum útgerðarmanni til innheimtu á því sem vantaði til fullnaðaruppgjörs. Og á meðan eiga vestfirskir sjómenn bara að bíða rólegir, þar sem forystan vill ekkert aðhafast. Þess má geta að þessi sami Pétur skrifaði með fyrirvara undir samningana í vor án þess að hafa nokkra heimild til þess frá verkalýðsfélögunum. Enn virðist hann á svipaðri skoðun því það er haft eftir honum að forsenda breytinganna á sjóðakerfinu hafi verið að samningar næðust milli útgerðarmanna og sjómanna (þe. um lækkun skiptaprósentunnar).

Þannig lítur forysta verkalýðsfélaganna oftast á málin út frá sjónarmiði borgaranna, þeirra gróða má ekki skerða. Sjómenn geta ekki treyst slíkum mönnum til að leiða baráttu sína fyrir mannsæmandi kjörum. Þess vegna er nauðsynlegt að sjómenn hefjist þegar handa um að byggja félög sín og samtök þannig upp, að þau verði raunverulegt baráttutæki í stéttabaráttunni og lúti stjórn starfandi sjómanna.

-/ih

## Verkfall í þörungaverksmiðjunni
### FULLUR SIGUR VANNST

Mikil óánægja hefur verið meðal verkamanna í Þörungavinnslunni á Reykhólum vegna þess hversu fyrirtækið hefur staðið ílla í skilum með laun, og hversu mikil óreiða hefur verið á greiðslum í lífeyrissjóði, sparimerkjum og orlofi. Uppúr sauð þann 24 ágúst, en þá höfðu laun ekki verið greidd í 5 vikur, og orlof, lífeyrissjóður og sparimerki voru ekki greidd. Verkamennirnir héldu fund mánudaginn 23. þar sem þess var krafist að laun yrðu greidd og greitt úr annarri óreiðu í fjármálunum. Þeir gáfu fyrirtækinu sólarhringsfrest, ella yrði lýst yfir verkfalli. Fyrirtækið vildi semja um að hálfur mánuður yrði greiddur strax, en afgangurinn seinna, en að því vildu verkamenn ekki ganga. Lýstu þeir yfir verkfalli að lokinni dagvinnu þann 24 ágúst, og gáfu fyrirtækinu það til kynna að það væri ekkert til að semja um: Þeir myndu ekki sætta sig við annað en að fá greidd öll laun sem þeir ættu inni.

Alls náði verkfallið til um 25 verkamanna.

Eftir tveggja sólarhringa verkfall gafst fyrirtækið upp, og lofaði fullu uppgjöri föstudaginn 27. ágúst. Verkamenn gáfu fyrirtækinu lengri frest til að koma lagi á orlofsgreiðslur, sparimerki og greiðslur í lífeyrissjóð.

Þessi velheppnaða aðgerð verkamannanna við Þörungavinnsluna sýnir enn að ekkert skelfir atvinnurekendur meira en ákveðin og samtaka verkfallsaðgerð sem hafnar öllu makki og undanslætti. Stéttabaráttan lýsir yfir fögnuði sínum með þessi úrslit.

## Konur lægst launaða vinnuaflið

Í nýútkomnu fréttabréfi Kjararannsóknarnefndar koma fram athyglisverðar tölur sem leiða vel í ljós kynjamisréttið á vinnumarkaðinum. Í bréfinu segir að meðaltímakaup verkakvenna í dagvinnu á fyrsta ársfjórðungi þessa árs hafi verið um 60 kr. lægra en tímakaup karla. Verkakonur hafi að meðaltali fengið 343,67 kr. á tímann en karlar 404,80 kr. Meðalmánaðarkaup verkakvenna var þannig um 11.000 kr. lægra en karla, eða um 55.000 á móti 66.000.

Samdráttur framleiðslunnar hefur einnig bitnað harðast á verkakonum. Á tveimur árum hefur yfirvinna hjá verkakonum dregist saman um ca. helming. 1974 var um 8,5% af vinnu kvenna unnin í næturvinnu en fyrsta ársfjórðung þessa árs var hlutfallið komið niður í 4,1,% Í fyrra var 23,3% af vinnutíma karla í yfirvinnu en aðeins 7,3% af vinnutíma kvenna.

Þessar niðurstöður Kjararannsóknarnefndar sýna glögglega hver staða verkakvenna á vinnumarkaðinum er. Þær eru notaðar sem ódýrt vinnuafl, þrælkaðar í yfirvinnu ef atvinnurekendur þurfa á að halda en kastað út á gaddinn fyrstum allra ef samdráttur verður í atvinnulífinu. Verkakonur eru því verst stæði hluti íslensku verkalýðsstéttarinnar. Sá hluti sem lægst er

## inni í blaðinu

**Nýja vinnulöggjöfin**
SJÁ BLS. 4.

**barátta verkalýðsforingja**
SJÁ BLS. 5.

**vinnuálag**
SJÁ BAKSÍÐU.

Stéttabaráttan

Stéttabaráttan 15. tbl
5. árg. 27/8. 1976.

Útg.: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
STÉTTABARÁTTAN kemur út hálfsmánaðarlega.
Póstfang: Pósthólf 1357, Rvík.
Sími: 27810.
Ritstj. & ábm: Ólafur Ingólfsson
Gíró: 27810.

# ASÍ þingar um vinnulöggjöfina

Nú nýlega hefur ASÍ-forystan kveðið upp úr með það að breytingar á vinnulöggjöfinni séu þegar tilbúnar af hendi félagsmálaráðherra, sem samið hefur drögin án samráðs við verkalýðshreyfinguna. Þessi nýju lög um vinnudeilur hafa verið sendar verkalýðsfélögum en eiga samt enn um sinn að vera trúnaðarmál milli verkalýðsforystunnar og ríkisvaldsins.

En þrátt fyrir að reynt hafi verið að fara laumulega með frumvarpið hefur þekking um innihald þess þegar lekið út. Ef þessi nýja vinnulöggjöf nær fram að ganga táknar hún gífurlega skerðingu á réttindum verkalýðsins til að berjast fyrir bættum kjörum og gegn vaxandi kjaraskerðingu. Þessvegna koma viðbrögð ASÍ-forystunnar flestum mjög á óvart, laumuspil hennar með handhöfum ríkisvaldsins geta verkamenn ekki skoðað sem neitt annað en stuðning við þessi nýju þvingunarlög. Einu eðlilegu viðbrögðin væru þau að mótmæla hástöfum og skora á verkafólk til baráttu gegn þessum nýju lögum.

En ASÍ-forystan bregst að vonum öðruvísi við. Hún kallar saman lokað þing þar sem hinn almenni verkamaður hefur hvorki rétt til að fylgjast með gangi mála né taka á annan hátt þátt í mótun afstöðunnar til málsins. Þessa starfsaðferð þekkja verkamenn raunar vel. Þetta er einmitt sú aðferð sem hið borgaralega ríkisvald notar. Málið er sett í nefnd og þar eru það sjálfskipaðir "sérfræðingar" sem ákveða hver niðurstaðan verður.

Þetta er einmitt kjarninn í hinni nýju vinnulöggjöf. Nú á verkafólk ekki lengur að hafa tækifæri eins og áður á að fara í verkfall og berjast fyrir bættum kjörum, heldur mun ríkisvaldið í samráði við örfáa toppa í ASÍ ákveða hver kjarabótin verður. Verkafólkið í félögunum á ekki að skipta sér af niðurstöðum þessara manna um burðarþol atvinnuveganna, eins og það er látið heita þegar lækka þarf laun verkalýðsins.

Þingið sem ASÍ-forystan ætlar að halda um vinnulöggjöfina, er aðvörun til verkafólks um hvert stefnir. Það á að afgreiða vinnulöggjafarmálið án þess að verkafólk fái að fjalla um það, og ef það kemur til umræðu í félögunum verður það aðeins formsatriði, ekki ætlast til að fundir félaganna hafi ákvörðunarvald. ASÍ-þingið mun líklega senda frá sér tillögur um breytingar, en ef þær taka ekki til megininntaks draganna eru þær einskis virði.

Verkafólk verður að krefjast þess að afstaða ASÍ-forystunnar fari ekki eftir geðþótta hennar, heldur eftir vilja verkafólksins í félögunum.

Þess vegna hljótum við að setja fram þá kröfu að afstaða verkalýðshreyfingarinnar mótist ekki á toppfundum forystunnar, heldur af vilja félagsfundanna í verkalýðsfélögunum eftir ýtarlegar umræður í allri hreyfingunni. Aðeins þannig verður hægt að koma í veg fyrir að verkfallsrétturinn verði seldur af gjörspilltri forystu, sem löngu er hætt að eiga sömu hagsmuni og verkalýðsstéttin.

26/8

HVERNIG KEMST ÞÚ Í SAMBAND VIÐ KOMMÚNISTAFLOKK ÍSLANDS/ML?

Miðstjórn: Pósthólf 1357 Reykjavík, einnig í síma 27810.
Ritstjórnir Stéttabaráttunnar og Rauða fánans: Pósthólf 1357, Rvík, einnig í síma 27810
Reykjavíkurdeild: Lindargötu 15, sími: 27810.
Akureyrardeild: Guðvarður M. Gunnlaugsson, Helgamagrastræti 23, einnig pósthólf 650, Akureyri.
Suðurnesjadeild: Jónas H. Jónsson, Holtsgötu 26 Njarðvík, sími: 2641.
Hafnarfjörður: Fjóla Rögnvaldsdóttir, Vitastíg 3.
Neskaupstaður: Stuðningsdeild c/o Messíana Tómasdóttir, um.
Snæfellsnes: Sigfús Almarsson, Skólabraut 10, Hellissandi.

Hvar geturðu keypt Stéttabaráttuna?

SUÐURLAND:
Reykjavík: Rauða stjarnan, Lindargötu 15.
Bóksala stúdenta í Félagsstofnuninni v/ Hringbraut.
Einnig fæst blaðið nú í mörgum söluturnum.
Suðurnes: Hrólfur B. Ágústss. Háaleiti 6, Keflavík.
Hafnarfjörður: Fjóla Rögnvaldsdóttir, Vitastíg 3.
Vestmannaeyjar: Guðrún Garðarsdóttir, Þorlaugsgerði.

VESTURLAND:
Hellissandur: Sigfús Almarsson, Skólabraut 10.

NORÐURLAND:
Akureyri: Guðvarður Gunnlaugsson, Helgamagrastræti 23
Siglufjörður: Söluturnin við Aðalgötu.
Húsavík: Þórarinn Ólafsson, Sólbrekku 5.

AUSTURLAND:
Neskaupsstaður: Messiana Tómasdóttir,

Íslendingar erlendis.

Nú getið þið keypt Stéttabaráttuna hjá umboðsmönnum okkar í nokkrum borgum á norðurlöndum.

NOREGUR:
Oslo: Katrín H. Andrésdóttir, Sogn Studentby 1310, Oslo 8.

SVÍÞJÓÐ:
SOLNA: Magnús Sæmundsson, Kungshamra 23a, 17170, Solna.

LUNDUR: Jón Rúnar Sveinsson, Kämnarsvägen 5 D: 218
222 46 Lund.

DANMÖRK:
ÅRHUS: Magnús Þorgrímsson, Börglum Kollegiet v 444, Börglumsvej 2, 8240 Risskov.

# Yfirlýsing vegna ögrunaraðgerða EIKm.l. 21. ágúst

Vegna ítrekaðra fullyrðinga, sem birst hafa í fréttatilkynningum og auglýsingum þess efnis, að KFÍ/ML hafi hafnað samstarfi þann 21. ágúst s.l. skal bent á eftirfarandi:

Kommúnistaflokkurinn hóf undirbúning að mómælaaðgerðum við sovéska sendiráðið þegar í byrjun ágúst. Liður í þeim undirbúningi var hvatning til einstaklinga og félagasamtaka að sýna aðgerðunum stuðning, en hún var birt á forsíðu 14. tölublaðs STÉTTABARÁTTUNNAR og hljóðar svo: "Við skorum á einstaklinga og félagasamtök að lýsa yfir stuðningi við aðgerðirnar 21. ágúst og leggja þannig lóð á þær vogarskálar, að afhjúpa Sovétríkin sem heimsvaldasinnað stórveldi."

Um þetta var hópnum í kringum Ara T. Guðmundsson, sem kallar sig "Einingarsamtök kommúnista (m-l)" fullkunnugt.

Því ber að skoða klofnings- og skemmdarverkatilburði þeirra þann 21. ágúst í þessu ljósi. EIK(m-l) var ljóst, að KFÍ/ML myndi halda mótmælafund gegn sovésku sósíalheimsvaldastefnunni, að fundurinn væri haldinn til stuðnings tékkneskri alþýðu og að EIK(m-l) sem öðrum væri heimilt að styðja þessar aðgerðir með þátttöku eða á annan hátt. Í fréttatilkynningu EIK(m-l), sem birtist m.a. í Vísi, er því talað gegn betri vitund, þegar segir að KFÍ/ML hafi hafnað samstarfi, sé fjandmaður tékkneskrar alþýðu en styðji sovéska drottnunarstefnu. Því má öllum vera ljóst, að fréttatilkynning þessi og auglýsing sama hóps í Þjóðviljanum 19. ágúst, beinist ekki gegn sovésku sósíalheimsvaldastefnunni, heldur Kommúnistaflokki Íslands m-l. Hvorttveggja er tilraun til að bægja athyglinni frá kúgun sovésku sósíalheimsvaldastefnunnar á tékkneskri alþýðu og að meintum rangindum KFÍ/ML.

Að mati Framkvæmdanefndar miðstjórnar KFÍ/ML er þessi sundrungarstarfsemi EIK(m-l) aðeins rökrétt framhald af fjandskap þessa hóps við KFÍ/ML og andstöðu hans við sameiningu íslenskra marxista-lenínista. Hér ráða sem fyrr eigingjörn hópsjónarmið þessa litla hóps, en ekki hagsmunir verkalýðs eða vinnandi alþýðu.

Framkvæmdanefnd miðstjórnar KFÍ/ML fordæmir harðlega starfsemi þessa smáhóps, EIK (m-l) er málsvari sundrungar og ögrandi vinnubrögð þeirra gera sameiningu íslenskra marxista-lenínista ómetanlegt ógagn. Framkvæmdanefnd miðstjórnar KFÍ/ML lýsir því yfir, að fenginni reynslu af óheiðarleika og sundrungarstarfi EIK (m-l), að ekkert sérstakt samstarf getur átt sér stað milli þessara aðila, svo lengi sem EIK(m-l) heldur skemmdarstarfsemi sinni áfram.

Við hvetjum alla byltingarsinna og baráttufúst verkafólk til að vera á varðbergi gegn ögrunaraðgerðum og skemmdarverkastarfsemi þessa hóps. Íslensk verkalýðsstétt þarfnast sameiningar en ekki sundrungar. Þess vegna verður hún að hafna sundrungaröflunum og eigingjörnum smáhópasjónarmiðum, en fylkja sér undir merki Kommúnistaflokks Íslands m-l.

Það er aðeins einn lenínískur flokkur til á Íslandi, um hann verða verkamenn og vinnandi alþýða að sameinast til baráttu gegn auðvaldsskipulaginu.

Framkvæmdanefnd miðstjórnar KFÍ/ML.

(Auglýsing úr Þjóðviljanum)
Eik m-l sparaði hvorki fé né rangfærslur til að rægja baráttu KFÍ/ML gegn sósíalheimsvaldastefnunni.

**21. ágúst — Tékkóslavakía**

**Mótmælastaða á 8 ára innrásarafmælinu. Eik (m-l) bauð KFÍ/ML samvinnu um mótmælaaðgerðir. Þar eð svokallaður KFÍ/ML hafnaði tilboðinu mun Eik (m-l) gangast fyrir mótmælastöðu. Mætið við Sendiráð Sovétríkjanna, Garðastræti 33, laugardaginn 21. ágúst kl. 14.30 og sýnið þannig tékkneskri alþýðu virkan stuðning.**

**Eik (m-l)**

# Mótmælayfirlýsing

Til sendiherra Sovétríkjanna á Íslandi:
Mótmælafundur haldinn af Kommúnistaflokki Íslands m-l hefur gert eftirfarandi samþykkt:

Nú eru 8 ár síðan sameinaður herafli Warsjárbandalagsins réðist inn í Tékkoslovakiu og svipti tékka þjóðfrelsi sínu. Framferði Sovétríkjanna sýndi svo engum getur dulist, heimsvaldasinnað eðli þeirra afla sem hrifsuðu völdin 1956. Sovétríkin eru nú árásargjarnt risaveldi, sem treður þjóðfrelsi og sjálfstæði annarra ríkja undir járnhæl sínum. Sovétríkin hafa staðsett geysilegan herafla á landamærum V-Evrópu og árásarfloti þeirra siglir nú um öll heimsins höf. Engum getur dulist að tilgangurinn með þessum herbúnaði er sá, að hrinda draumum Brésneff-klíkunnar um heimsyfirráð í framkvæmd - að hrinda mannkyninu út í nýja og blóðuga heimsstyrjöld. Hvarvetna sem Sovétríkin blanda sér í málefni annarra ríkja og þjóða, ber framferði þeirra vott um þessa vitfirringslegu fyrirætlan hinna nýju Zara í Kreml. Íslensk alþýða hefur ekki gleymt mótmælum Sovétríkjanna gegn útfærslu landhelgi okkar í 200 sjómílur og henni verður æ betur ljós sú hætta sem heiminum stafar af styrjaldarundirbúningi og útþennslustefnu Sovétríkjanna. Í dag, þegar tékknesk alþýða hefur borið þrældómsok sósíalheimsvaldastefnunnar í 8 ár, sýnum við samstöðu okkar með málstað hennar á þessum mótmælafundi. Við tökum undir kröfur hennar um að sovéskur her og herafli Warsjárbandalagsins hverfi þegar frá Tékkoslovakiu. Við styðjum rétt tékkneskrar alþýðu til að ráða eigin málefnum án allrar íhlutunar frá erlendum herveldum. Við styðjum vaxandi frelsisbaráttu einhuga og tökum undir þessar kröfur hennar:

Sovétríkin burt frá Tékkoslovakiu.
Niður með sovésku sósíalheimsvaldastefnuna.

Lifi frelsisbarátta tékkneskrar alþýðu.

# Til áskrifenda í útlöndum

Með 14. tbl. fengu þeir áskrifendur sem skulda enn áskriftir innheimtukröfu. Þar sem allur kostnaður við sendingar til ykkar hefur vaxið upp úr öllu valdi er nauðsynlegt að þið greiðið skuldir ykkar hið allra fyrsta. Þeir sem ekki senda okkur greiðslu eða láta í sér heyra (tilkynni breytt heimilisfang td.) munu verða teknir af skrá sem áskrifendur þar til endurnýjun hefur átt sér stað (með greiðslu á áskriftargjaldinu).

Ritnefnd hefur ákveðið að framvegis verði áskrifendur erlendis að greiða baráttuáskrift, þar sem venjuleg- og stuðningsáskrift nægja ekki til þess að greiða þann aukakostnað sem er samfara því að senda blaðið til annarra landa.

# Hvert fara launin okkar?

Það veit hver verkamaður að það fé sem hann hefur handa á milli hefur ekki aukist að kaupmætti undanfarin ár. Þótt fleiri krónur komi í launaumslagið þá eru ráðstöfunartekjurnar æ minni hluti af útborguðum launum. En hvert fer fúlgan?

Vinnuveitendasambandið hefur birt línurit yfir árin 1963-73 þar sem sýndur er vöxtur útborgaðra launa og hvernig þau skiptast. Þetta línurit er góð heimild um það hvers vegna verkalýðurinn verður að vinna langan vinnudag, til þess að geta lifað sómasamlegu lífi.

Það sem sérstaklega er athyglisvert af þeim upplýsingum sem hér koma fram er það að skattar hafa vaxið um 765% á tímabilinu en ráðstöfunartekjur um 39% (þótt ráðstöfunartekjur hafi hækkað þá þýðir það ekki þar með að kaupmáttur launa hafi vaxið þar sem æ stærri hluti launanna er fenginn með yfirvinnu). Einnig sést hvernig æ stærri hluti launanna fer í það að mæta þeim gífurlegu verðhækkunum sem hafa orðið undanfarin ár. Árið 1973 er meðalkaup fyrir iðnlærðan verkamann 768,90 kr., af því fara 159,20 kr. í skatta, en 448,50 kr. til þess að mæta verðhækkunum. Eftir eru 161,20 kr. Þessar krónur sem eftir eru þegar verðbólgan og skatturinn hafa gleypt sitt eru fengnar með löngum vinnudegi sem hefur slæm áhrif bæði á heilsu og fjölskyldulíf verkalýðsins.




# Fundur á vegum starfs hópsins gegn lokun mjólkurbúða

Á 60 manna fundi sem nokkrir einstaklingar úr hópi starfsstúlkna í mjólkurbúðum og neytenda boðuðu til þ. 29. júlí sl. var kosinn starfshópur til að skipuleggja baráttuna gegn lokun mjólkurbúða Mjólkursamsölunnar. Fimmtudaginn 12. ágúst var síðan haldinn fjölmennur fundur í Lindarbæ á vegum starfshópsins. Fundinn sóttu 170-200 manns, og var mikill baráttuhugur í fólki. Framsöguræður fluttu Lilja Kristjáns dóttir, starfsstúlka og Elísabet Bjarnadóttir. Lilja rakti fyrir fundargestum það sem starfshópurinn hafði gert frá því að hann var stofnaður og gerði grein fyrir undirskriftasöfnuninni sem nú stendur sem hæst. Lilja vék síðan að því sem starfsstúlkurnar eiga yfir höfði sér, ef til lokunarinnar kemur:

"Hvað okkur starfsstúlkunum viðvíkur, finnst mér alveg hryllilegt að kasta eigi okkur út á götuna eins og hverju öðru bílhræi, eftir að við höfum starfað allt upp í 10 og jafnvel 20 ár. Ég sætti mig ekki við þessa staðreynd, að missa atvinnuna, og berst þess vegna gegn því til þrautar. Hér stend ég og get ekki annað. Samsalan ætti að líta á það sem meðmæli að við viljum halda áfram að starfa fyrir hana, því betri atvinnurekanda hef ég ekki haft.

Að endingu vil ég segja þetta: Jæja, stelpur mínar, nú líður senn að lokadeginum, en einungis með algjörri samstöðu okkar getum við komið í veg fyrir að lokadagurinn komi nokkurntíma!



Frá fundinum í Lindarbæ.

Elísabet rakti nokkur ummæli Stefáns Björnssonar forstjóra MS í dagblöð eftir yfirlýsingu 60 manna fundarins um að hefja baráttu gegn lokuninni, en Stefáni hefur verið mikið í mun að skella sökinni á Alþingi eingöngu, þar sem þetta hafi verið ákveðið með lagasetningu. En Stefán virðist ekki hafa skilið lögin rétt, eða etv. vill hann það ekki, því þar er ekkert ákvæði um það að MS verði að loka búðum sínum.

Síðan sagði Elísabet:

Það þykir etv. einhverjum undarlegt að ég sem neytandi skuli tala mest út frá atvinnuleysissjónarmiðinu, en atvinnuleysi er ekkert grín fyrir verka fólk, sem hefur ekki annað að lifa af en selja sitt vinnuafl. Ég vil svo hvetja alla þá sem hér eru að sýna samstöðu og leggja þessu máli lið þar til sigur vinnst. Fari svo, sem gerst getur í versta falli, að Samsalan hunsi kröfur hinna fjölmörgu sem ég er viss um að skrifa á undirskriftalistana, þá verðum við að fara út í harðari aðgerðir, og þá ríður á að enginn gefist upp. Gleymum ekki verkfallsvopninu, sem er sterkasta vopn verkalýðsins."

Eftir framsöguræðurnar komu margir upp til að láta álit sitt í ljós. Mikið var rætt um að fá önnur verkalýðsfélög til stuðnings starfsstúlkunum í ASB og í ályktun sem samþykkt var í lok fundarins er skorað á verkalýðsfélög og hinn almenna neytanda að styðja stúlkurnar í þessu sjálfsagða réttindamáli.

Þarna kom upp maður sem kvaðst vera fyrrverandi bóndi úr Flóanum. Hann sagði að á fundum hjá Mjólkurbúi Flóamanna fyrir nokkrum árum hafi komið fram að ekki kæmi til greina að láta mjólkursamsöluna í hendurnar á kaupmönnunum, þegar rætt var um þessi mál. Það er því spurning, hvort ekki sé hægt að fá fleiri bændur til stuðnings þessu máli því ekki fæ ég séð hvaða akkur þeim er í þessari breytingu, og þó síður sé.

Einnig var nokkuð deilt á forystu ASB fyrir aðgerðaleysi og afstöðuleysi í málinu, en enginn stjórnarkvenna var viðstödd til að svara fyrir stjórnina. En nú hefur starfshópurinn fengið aðstöðu í húsnæði ASB í Kirkjustræti 4, fyrir starfsemi sína. Þegar STÉTTABARÁTTAN leitaði frétta þar fyrir helgi, kom í ljós að enn hafði ekki verið haldinn fundur í stjórnar- og trúnaðarmannaráði ASB, en það yrði væntanlega nú í þessari viku.

Af undirskriftasöfnuninni er það að frétta að hún hefur gengið nokkuð vel, nær undantekningarlaust hlotið góðar undirtektir, en enn vantar þó sjálfboðaliða til að ganga með lista í nokkur hverfi. Að spurður sagði fulltrúi Starfshópsins að ekki væri farið að ráðgera frekari aðgerðir, og teldi hópurinn rétt að bíða og sjá hver árangur undirskriftasöfnunarinnar yrði.

## Stórkaupmenn ná einokunaraðstöðu

Það er augljóst að þetta margumtalaða frumvarp Alþingis, þess efnis að afnema einkasöluleyfi Mjólkursamsölunnar á mjólk og mjólkurvörum, er ekkert annað en bragð stórkaup manna gegn smákaupmönnum. Þeir vilja einoka verslunina, og Ellert Schram, aðaltalsmaður frumvarpsins á Alþingi, er ekkert annað en málpípa stórkaupmanna.

"Kaupmaðurinn á horninu" hefur í flestum tilfellum ekki fjárhagslegt bolmagn til að taka mjólkina inn til sín, eða að yfirtaka mjólkurbúðina við hliðina. Þetta verður til þess að stóru verslanirnar draga í sívaxandi mæli öll viðskipti frá smákaupmönnum til sín, þar sem "allt er á sama stað." Það er ekkert einsdæmi að verkafólk verði að þola atvinnumissi vegna sívaxandi einokunar borgarastéttarinnar á öllum sviðum. Gegn þessu verður að berjast.

KFÍ/ML hvetur alla til að styðja aðgerðir starfshópsins, og taka að sér söfnun undirskrifta á vinnustöðum sínum, íbúðahverfum og hvar sem unnt er.

# Ísland er láglaunaland

Sjaldan hefur áróður borgaraflokkanna afhjúpast fyrir vinnandi alþýðu eins og undanfarna mánuði. Allt kjaftæðið um velferðina á Íslandi sýnir sig í reynd vera innantómt skrum og afbökun hins raunverulega ástands, til þess ætlað að draga úr slagkrafti verkalýðsbaráttunnar. Tröllaukin verðbólga og minnkandi kaupmáttur, aukin skattpíning auk atvinnusamdrátts leiðir öllu vinnandi alþýðufólki heim sanninn um að "velferðarþjóðfélagið" er aðeins fyrir atvinnurekendurna og valdamennina.

## Launin hér helmingi lægri en í nágrannalöndum

En hver er staða íslensks verka fólks miðað við verkalýð nágrannalandanna? Undanfarið hafa komið fram mjög athyglisverðar tölur sem sýna að meðaltals verkamannalaun hér á landi eru langt fyrir neðan það sem gengur og gerist í nálægum löndum. Í töflu sem birtist fyrir skömmu í bandaríska blaðinu Washington Post kemur fram að laun íslensks verkafólks eru sem svarar tvisvar sinnum lægri en í Bandaríkjunum. Miðað við Svíþjóð er ástandið enn verra. Þar eru launin næstum því þrisvar sinnum hærri. Lítum nú aðeins á töfluna:

| Útborgað tímakaup starfsfólks í iðnaði | 1974 | 1975 |
|---|---|---|
| Bandaríkin | 565,09 | 955,57 |
| Svíþjóð | 547,12 | 1093,13 |
| Ísland | 362,48 | 465,07 |

Vissulega segja þessar tölur ekki alla söguna. Taka verður með í reikninginn þann mismunandi kaupmátt sem er í hverju landi fyrir sig. En það blandast víst engum hugur um að þar eru ísl. verkamenn illa settir. Kaupið hér hefur ekki aðeins hækkað langminnst að krónu- og prósentutölu heldur hefur kaupmátturinn rýrnað geysilega á seinustu tveim árum. Enda er verðbólgan langmest hér á landi af þeim þrem löndum sem samanburðurinn nær til. Línuritið hér til hliðar sýnir þessa þróun kaupmáttarins niður á við greinilega.

Önnur atriði sem taka verður tillit til eru skattaálögur, húsaleiga ofl. Þau bæta ekki stöðu ísl. verkafólks miðað við það bandaríska og sænska nema síður sé.

—— Verkamenn
– – – Iðnaðarmenn
····· Verkakonur
140
120
100
1973 1974 1975 1976

## Kaupmáttur helmingur framfærsluvísitölu

Fyrir einu ári síðan reiknaði Hagstofan út að vísitölufjölskyldan þyrfti rúmlega 100 þúsund krónur á mánuði sér til framfærslu. Þeir útreikningar voru allt of lágir þar sem í vísitölunni er ekkert tillit tekið til húsaleiguokursins og fleiri óhjákvæmilegra kostnaðarliða fyrir flest alþýðufólk. En hver er staðan nú ári síðar? Hefur vísitölufjölskyldan fengið það sem hún þarf?

Það er langt frá því. Ástandið hefur stórversnað. Á seinasta ári nam verðbólgan um 50% og samhliða því hefur framfærslukostnaðurinn stóraukist. En samkvæmt útreikningum Kjararannsóknarnefndar sem nýlega hafa verið birtir, er útborgað kaup til verkafólks að meðaltali sem hér segir:

Verkakonur hafa 55.000 kr. í mánaðarlaun af dagvinnu og verkakarlar 66.000 kr. Þetta eru svívirðilega lágar upphæðir sérstaklega þar sem yfirvinna hefur stórlega dregist saman en á henni hefur verkafólk að mestu dregið fram lífið.

## Lífvænleg laun fyrir 40 stunda vinnuviku

Undanfarin ár hefur verkafólk getað haft í sig og á með stöðugri yfirvinnuþrælkun daginn út og inn. Dagvinnukaupið hefur hvergi nærri nægt. Nú er framundan dökkt tímabil ef íslenskur verkalýður grípur ekki strax í taumana. Auðvaldið reynir að velta kreppubyrðunum yfir á verkalýðinn til að bjarga eigin skinni og gróða, því er nákvæmlega sama þótt herðist að kjörum alþýðuheimilanna. Og það sem verra er. Verkalýðsforystunni er ekki hægt að treysta. Það sýna síendurtekin svik þeirra í samningum við kröfu verkafólks um lífvænleg laun fyrir 40 stunda vinnuviku. Við erum fjær því marki nú heldur en fyrir 10 árum. Enda er ekki við því að búast að broddar eins og Snorri Jónsson, Jón Snorri og Gvendur "Jaki" séu að baka sér óþarfa áhyggjur. Þeirra laun frá auðvaldinu hafa vissulega fylgt verðbólgunni. Að minnsta kosti segir skattskráin okkur, að flestir þeirra hafi um og yfir 200 þús. krónur í mánaðarlaun.

-/MVS

# Hvert stefna breytingar á vinnulöggjöfinni ?

Það lagafrumvarp um breytingar á vinnulöggjöfinni sem Gunnar Thoroddsen hefur lagt fram er stórt skref í þá átt að uppfylla óskir auðvaldsins um skertan verkfallsrétt verkalýðsins.

En þetta frumvarp er örugglega aðeins eitt skref af fleirum sem verða tekin ef verkalýðurinn hindrar ekki að frumvarpið verði að lögum.

Stefnan er augljós, það sem auðvaldið vill eru allsherjarkjarasamningar sem eru gerðir á milli Vinnuveitendasambandsins og Alþýðusambandsins samkvæmt lagafyrirmælum. Þess konar allsherjarsamningur, sem nú þegar tíðkast í nokkrum sk. lýðræðislöndum, koma í veg fyrir að verkalýðurinn geti haft áhrif á gerð kjarasamninga, topp-klíka ASÍ myndi sjá um þá.

Núverandi lagafrumvarp nær ekki að uppfylla þessar óskir, en sleppi það í gegn þá verður þess ekki langt að bíða að "smávægilegar" lagfæringar verði gerðar á því í þá átt sem atvinnurekendur vilja. Af þessum sökum má verkalýðurinn ekki ljá máls á því að nokkrar breytingar verði gerðar, þó svo að ASÍ-forystan geti fyrir sitt leyti fallist á "lagfæringar" ýmis konar. Það sem þarf að gera í málinu núna er að kæfa þetta frumvarp í fæðingu og undirbúa sókn gegn núverandi vinnulöggjöf til hagsbóta fyrir verkalýðinn.

Þær breytingar sem íslenska auðvaldið hyggst nú gera á gildandi vinnulöggjöf má draga saman í eftirfarandi meginatriði:

1) Stefnt er að því að auka miðstýringu kjaramála. Ætlunin er að gera ASÍ að löglegum aðila að kjarasamningum. En spurningin er: Hver hefur farið fram á að ASÍ fái aukin völd? Er það verkalýðurinn í hinum einstöku félögum? Opinberlega eru það bara fulltrúar VSÍ sem hafa lagt þetta til. En starfsaðferðir ASÍ-forystunnar undanfarin ár sanna ótvírætt að hún er fylgjandi því að vald hennar verði aukið í lögum. Sjá 6. og 13. gr.

2) Stóraukin afskipti ríkisvaldsins af kjarasamningum. Sáttasemjarastarfið verður fullt starf og honum verður heimilað að fresta boðuðum verkföllum um 5 sólarhringa ef hann sér ástæðu til. Sáttasemjari fær vald til þess að stjórna kosningu í verkalýðsfélögum um þær miðlunartillögum sem hann setur fram, þannig getur hann haft mikil áhrif á það hvernig tillögum hans reiðir af. Félagsmálaráðherra skal einnig fá vald til þess að fresta ákveðnum vinnustöðvunum í allt að tvo mánuði. Sjá 18., 24., 25., 27., 28. og 29. gr.

3) Stórfelld íhlutun í málefni verkalýðshreyfingarinnar. Með frumvarpi þessu er reynt að skerða sjálfráðarétt verkalýðsfélaganna til mikilla muna. Ma. getur einfaldur meirihluti á löglega boðuðum fundi í verkalýðsfélagi ekki tekið ákvörðun um boðun verkfalls og um samþykkt eða synjun á tillögu um nýja kjarasamninga. Þetta atriði er eitt hið geigvænlegasta í öllu frumvarpinu og jafnframt það sem varpar skýrustu ljósi á tilgang þeirra breytinga sem fyrirhugaðar eru. Nái þessi ákvæði fram að ganga þá getur sáttasemjari þvingað í gegn samþykkt á miðlunartillögu sinni (hann skal skv. 29. gr. hafa áhrif á það hvenær og hvar atkvæðagreiðsla fer fram). Sjá 32. og 33. gr.

Megineinkenni þessa frumvarps eru þau að með því er komið til móts við margar af þeim breytingarkröfum sem atvinnurekendur hafa sett fram undanfarin ár. Verkalýðurinn getur því ekki látið þetta frumvarp verða að lögum - það yrði stór ósigur ef hann yrði sviptur því vopni sem hann hefur notað til þess að knýja fram kjara- og réttindabætur.

-/hh



Framhald af baksíðu.

STEINALDARVINNUBRÖGÐ

skiptingu hráefnisins og um að halda verðinu niðri. Þetta kom skýrt fram þegar verksmiðjustjórinn á Norðfirði vildi endurreisa verksmiðjuna að norskri fyrirmynd, en það hefði þýtt miklu betri nýtingu og stóraukin afköst. En þá voru öll lán bundin því skilyrð að sama steinaldarvinnufyrirkomulaginu yrði viðhaldið.

Það vita allir sem vilja vita að tækni og þar með nýtni bræðslna í "einkaeign" (þe eign hlutafélaga eða banka) er all nokkuð betri en hjá Síldarverksmiðjum ríkisins. Fiskverð tekur hins vegar fyrst og fremst mið af "rekstrarafkomu" þeirra síðarnefndu og er þá alveg sama hversu langan (eða stuttan) tíma þær eru starfræktar á árinu. Það eru aðeins örfá ár síðan þær verksmiðjur þar sem engin vinnsla fór fram voru teknar út úr dæminu. Sjómenn þurfa því að standa undir öllu skrifstofubákninu og forstjórapakkinu í Reykjavík auk almennra afskrifta. Hinar bræðslurnar eru látnar komast upp með að skila "bókhaldsúrdrætti" sem fer svo til frekari meðhöndlunar eða umsagnar einhvers staðar í völundarhúsi bankavaldsins.

Þar sem vetrarvertíðin borgaði alla fasta útgjaldaliði bræðslanna þurfa þær nú á sumarvertíð aðeins að standa undir hráefnis- og orkukaupum auk launakostnaðar lausafólks. Það er ástæðan fyrir þeirri hækkun loðnuverðs sem átti sér stað milli vertíðanna. Hækkun á heimsmarkaði rennur að vanda öll í vasa auðherranna. En þrátt fyrir sinn gífurlega gróða sjá auðherrarnir ofsjónum yfir þeim fáu krónum sem falla í hlut sjómanna. Þess vegna er Sveinn Ben. með aðstoð undirsáta sinna látinn skipuleggja skemmdarverk og svartolíuskort til að halda niðri fiskverði á komandi vertíðum svo að stöðnun megi ríkja enn um sinn.

-/I. P.

# Úrdráttur úr frumvarpinu.

6. gr. Lögformlegir aðilar að kjarasamningum eru annars vegar stéttarfélög og stéttarfélagasambönd en hins vegar vinnuveitendafélög, vinnuveitendasambönd og einstakir vinnuveitendur. Um aðild félaga og félagasambanda að kjarasamningum fer eftir því, sem nánar segir í samþykktum þeirra.

13. gr. Heimilt er stéttarfélögum, stéttarfélagasamböndum vinnuveitendafélögum, vinnuveitendasamböndum og einstökum vinnuveitendum að gera verkföll og verkbönn í þeim tilgangi að stuðla að framgangi krafna sinna í vinnudeilum og til verndar rétti sínum samkvæmt lögum þessum og með þeim skilyrðum og takmörkunum, sem sett eru í lögum.

18. gr. Heimilt er félagsmálaráðherra að fresta um allt að 60 sólarhringa skeið einangraðri vinnustöðvun, sem í heild tekur til eitt hundrað félagsbundinna launþega eða færri, og ætla má að stöðvi rekstur mikilvægrar atvinnugreinar.

Ákvörðun ráðherra skal birt þeim, sem hlut eiga að máli skemmst fimm sólarhringum áður en vinnustöðvun á að hefjast. Frestunarheimild þessari má ráðherra beita aðeins einu sinni í hverri vinnudeilu.

20. gr. Félagsmálaráðherra skipar ríkissáttasemjar til fjögurra ára í senn.

Hann skal ekki vera yngri en 35 ára gamall, og vera að öðru leyti embættisgengur. Þess skal einnig gætt, að afstaða hans sé slík, að telja megi hann óvilhallan í málum launþega og vinnuveitenda.

Félagsmálaráðherra skipar einnig vararíkissáttasemjara til fjögurra ára í senn og skal hann fullnægja sömu skilyrðum og ríkissáttasemjari.

Vararíkissáttasemjari tekur við störfum ríkissáttasemjara, þegar hann er forfallaður og er honum til aðstoðar, ef þörf krefur.

Ríkissáttasemjari getur skipað aðstoðarsáttasemjara til að aðstoða sig við lausn vinnudeilu, eða vinna sjálfstætt að lausn einstakrar vinnudeilu. Það er borgaraleg skylda að taka að sér aðstoðarsáttasemjarastarf, en undanþegnir henni eru þó ráðherrar og hæstaréttardómarar.

Vararíkissáttasemjari og aðstoðarsáttasemjarar hafa réttindi og bera skyldur ríkissáttasemjara, þegar þeir eru að störfum.

Kjaradómur ákveður laun ríkissáttasemjara á sama hátt og laun ráðherra og hæstaréttardómara. Félagsmálaráðherra ákveður hins vegar laun vararíkissáttasemjara og aðstoðarsáttasemjara.

Ákvæði laga um 70 ára aldurshámark starfsmanna ríkisins ná ekki til sáttasemjara.

24. gr. Þegar samningi hefur verið sagt upp og kröfugerð send samkvæmt 7. gr., er samningsaðiljum skylt að gefa ríkissáttasemjara kost á að fylgjast með samningaviðræðum hvenær sem hann óskar.

Ríkissáttasemjara er ávallt heimilt að taka í sínar hendur stjórn samningaviðræðna, ef hann telur það heppilegt.

Ef slitnar upp úr samningaviðræðum aðilja eða annar hvor þeirra telur vonlítið um árangur af frekari samningaumleitunum, getur hvor þeirra um sig eða báðir sameiginlega vísað deilunni til ríkissáttasemjara. Þegar ríkissáttasemjari hefur fengið tilkynningu þess efnis, er honum skylt að kveðja aðilja eða umboðsmenn þeirra til fundar svo skjótt sem kostur er, og halda síðan áfram sáttaumleitunum, meðan von er til þess, að þær beri árangur.

Ef tilkynning berst um vinnustöðvun samkvæmt 15. gr. er ríkissáttasemjara skylt að kveðja deiluaðilja þegar í stað til samningaviðræðna, þótt þeir hafi þá ekki vísað málinu til hans.

Samningsaðiljum er skylt að sækja eða láta sækja samningafund, sem sáttasemjari kveður þá til.

25. gr. Sáttasemjari getur frestað því um allt að fimm sólarhringa að boðuð vinnustöðvun hefjist, ef hann hefur í hyggju að bera fram miðlunartillögu eða hann telur líkur á að fresturinn nægi til að leysa deiluna. Eigi er sáttasemjara heimilt að fresta vinnustöðvun nema einu sinni. Honum er óheimilt að fresta vinnustöðvun sem þegar er hafin. Ákvörðun um frestun vinnustöðvunar skal sáttasemjari tilkynna deiluaðiljum í síðasta lagi sex klukkustundum áður en vinnustöðvun á að hefjast.

27. gr. Sáttasemjari getur krafið aðilja að vinnudeilu um hverjar þær skýrslur og skýringar sem hann telur nauðsynlegar til að leysa vinnudeilu. Hann getur krafið allar opinberar stofnanir um þær upplýsingar og skýrslur, sem hann telur þörf á. Með öll slík mál skal fara sem trúnaðarmál, ef þess er óskað.

28. gr. Ef samningaumleitanir sáttasemjara bera ekki árangur, er honum rétt að leggja fram málamiðlunartillögu til lausnar vinnudeilu. Miðlunartillögu skal leggja fyrir félög eða félagasambönd launþega og vinnuveitenda eða einstakan vinnuveitanda eigi hann í vinnudeilu til samþykkis eða synjunar. Sáttasemjara ber að ráðgast við samninganefndir aðilja, áður en hann ber fram miðlunartillögu.

29. gr. Sáttasemjari ákveður í samráði við samninganefndir aðilja, hvenær og hvernig atkvæðagreiðsla skuli fram fara.

Ef ágreiningur snertir aðeins ákveðna deild eða starfsgrein innan félags eða félagasambands getur sáttasemjar ákveðið, að atkvæðagreiðsla taki eingöngu til deildarinnar eða starfsgreinarinnar.

Ef tvö eða fleiri félög og félagasambönd eiga saman í deilu, getur sáttasemjari í samráði við samninganefndir borið fram eina miðlunartillögu, er taki til fleiri en eins deiluaðilja eða þeirra allra. Atkvæðagreiðsla og talning atkvæða fer þá fram í sameiningu hjá öllum þeim félögum eða samböndum, sem málamiðlunartillaga nær til, þannig að sameiginlegt atkvæðamagn ræður úrslitum um samþykki eða synjun.

Sáttasemjara er einnig heimilt að efna til sameiginlegrar atkvæðagreiðslu, þótt hann beri fram fleiri en eina miðlunartillögu, enda sé það gert samtímis. Gilda þá reglur 3. mgr. eftir því sem við á.

Áður en atkvæðagreiðsla fer fram skal afhenda sáttasemjara kjörskrá. Félagsdómur dæmir um kjörskrárdeilur.

Atkvæðagreiðsla skal vera skriflega og leynileg.

Sáttasemjara eða fulltrúum hans er heimilt að vera viðstaddir kjörfundi. frh. á bls. 5

# Hverjir vilja breytingar

Hverjir hafa oskað eftir þessum breytingum? Eftirfarandi tilvitnanir sýna ljóslega hverjir það eru sem vilja þær breytingar sem nú eru fyrirhugaðar:

"Það kanna að hljóma einkennilega, en staðreynd er það samt, að eindregin ósk vinnuveitendasamtakanna er, að miðstjórnarvald Alþýðusambands Íslands verði aukið, annaðhvort með samningum milli verkalýðsfélaganna eða með breyttri vinnulöggjöf" (Jón H. Bergs, form. VSÍ).

"Það er pólitísk heilbrigðisráðstöfun, sem enga þolir bið: Þjóðnýting stéttasamtakanna er brýn þjóðarnauðsyn" (fasistablaðið "Staðreyndir").

"Þær (samningaviðræðurnar) þurfa í framtíðinni að verða einfaldari í sniðum og spurning, hvort ekki er nauðsynlegt að efla áhrif og vald heildarsamtaka í slíkum viðræðum á kostnað einstakra félaga amk" (Leiðari Mbl. 2.3. '76, undirstr. hh)

"Jafnhliða þessu verður að leita að leiðum til að koma í veg fyrir tíð verkföll smáhópanna" (Tíminn, 2.3. '76).

"Við viljum nýja vinnulöggjöf" (Leiðari Vísis 25.6. '76).

"Að sjálfsögðu er um margar breytingar að ræða, sem til greina gætu komið. Þó er ein sérstaklega mikilvæg, sú að láta sáttasemjara ríkisins fá vald til að fresta verkföllum um tiltekinn tíma" (Ingólfur Jónsson alþm. í Mbl. 20.5., undirstr. Mbl.).

"...að sérstaklega annan aðaladila vinnumarkaðarins skortir fullnægjandi miðstjórnarvald... og má heita að í skjóli úreltrar vinnulöggjafar geti slíkir vinnuhópar, jafnvel smáhópar, knúið fram nánast hvaða vitleysu og ósanngirni, sem þeim kann að þóknast að sýna" (Vinnuveitandinn, blað VSÍ, 2. tbl. 16. árg.).

"Við þessa endurskoðun (á vinnulöggjöfinni, innsk. hh) þarf að sjálfsögðu að hafa samráð eins og í mörgum öðrum samskiptum milli ríkisvalds og vinnuveitenda og taka tillit til reynslu vinnuveitenda og þarfa atvinnulífsins" (Jón H. Bergs á aðalfundi VSÍ 1974).

"Aðalfundur Vinnuveitendasambands Íslands haldinn í Reykjavík 7. og 8. maí 1974 skorar á ríkisstjórn Íslands að hefja nú þegar undirbúning að samningu lagafrumvarps um stéttarfélög og vinnudeilur Væntir fundurinn þess, að fullt samráð verði haft við Vinnuveitendasambandið við samningu frumvarpsins."

# Barátta verkalýðsforingja

Í Þjóðviljanum 4. apríl er viðtal við Jón Helgason, formann Verkalýðsfélagsins Einingar á Akureyri. Viðtalið ber þá ágætu yfirskrift "Eining um allan Eyjafjörð". Blaðamaðurinn er að leita frétt af starfsemi Einingar. Hann fær að vita að þetta sé næst stærsta verkalýðsfélagið á landinu með ca. 2.300 meðlimi. Blaðamanninum dettur nú þá í hug að við einhvern vanda sé nú að glíma í þessu stóra félagi, og spyr á þessa leið: "Einhver vandamál eigið þið við að glíma?" og formaður svarar að bragði: "Já, ekki skortir þau. Fyrir utan það daglega amstur sem fylgir starfsemi stórs verkalýðsfélags er stærsta vandamál ið hjá okkur að koma betra skipulagi á vinnuna við höfnina. Þar er fyrst og fremst um það að ræða að skapa þeim mönnum, sem eingöngu eiga afkomu sína undir hafnarvinnunni, meira atvinnuöryggi. Ennþá er skipaafgreiðslan hér á hendi margra, og oft átök og sviftingar um það hverjir eiga að fá vinnuna. Dæmi eru um það að skipaafgreiðslumenn sjái sér hag í því að kveðja út varalið í stað þess að nota fastaliðið við höfnina." Við höfum sett sem markmið eina sameiginlega skipaafgreiðslu sem hefði fastráðið starfslið. Ennþá hafa Kaupfélagið og Eimskip ekki talið grundvöll fyrir þessu en við reynum að þoka málinu áfram." Svo mörg voru þau orð. Óhætt er að segja að hafnarverkamönnum brá í brún þegar þeir lásu þetta, og sögðu "batnandi manni er best að lifa," en fleir voru þó sem sögðu "hvað andsk..... blekkingarvef er Jón nú að spinna?" En fólk á öðrum vinnustöðum, sem ekki þekkir til þessara mála sagði: "Alltaf er verið að berjast fyrir ykkur hafnarverkamenn, nú fer maður að skilja af hverju okkar mál ganga hægt fyrir sig", von að fólkið segi það. En nú skulum við aðeins víkja að þessari baráttu Jóns og Einingar fyrir okkur hafnarverkamenn og við verðum að líta aftur til 1973, er Jón varð formaður Einingar, eftir dæmalausustu kosningar í íslensku verkalýðsfélagi. Í þessari kosningahríð var mjög veist að okkur hafnarverkamönnum, bæði í ræðu og riti af hálfu Jóns H. og hans manna, við vorum nefndir lærisveinar og uppeldissynir fráfarandi formanns, Jóns Ásgeirssonar, og hafði í heitingum við okkur, nú skyldu okkar mál vera afgreidd á viðeigandi hátt. Það var ekki látið sitja við orðin tóm. Stuttu fyrir stjórnarskipt in var gerður samningur um premíugreiðslu og nú var hann tekinn til meðferðar. Okkur var sagt að nú öskraði atvinnurekandinn eftir lækkunum á þessum eða hinum lið samnings ins. Þegar við samþykktum ekki þessar lækkanir og fækkun manna, ja, þá var ekki lengur þörf á okkur við samningaborðið, og nú voru tekin upp einfaldari og afkastameiri vinnubrögð, sem sagt, formaðurinn samþykkti og skrifaði undir. Fyrst þetta gekk svona vel þá var ekkert til fyrirstöðu að gera premíusamning við sementsverksmiðjuna, sá samningur fól í sér smánarlega lága premíu, og helmings fækkun á mannskap miðað við sambærilega vinnu. Þetta þokkaplagg hlaut undirskrift formannsins, þrátt fyrir skriflega mótmæli allra hafnarverkamanna. Nú skulum við skoða það sem Jón kallar átök og sviftingar um það hverjir eiga að fá vinnuna. Um þetta er það að segja, að fyrir allmörgum árum var gerður samningur um forgangsrétt hafnarverkamanna og vinnuskyldu þeirra við allar skipaafgreiðslurnar. Þessi samningur er undirritaður af Vinnuveitendasambandinu og Vinnumálasambandi samvinnufélaganna. Þessi samningur tekur af öll tvímæli um hverjir eigi forgangsrétt til vinnunnar, og hefur ekki verið vefengdur af öðrum aðila en "okkar eigin" fyrirtæki, KEA. Á síðastliðnu sumri, þegar KEA tók að sér afgreiðslu fyrir Ríkisskip, sáu þeir sér ákveðið hagræði í að beita fyrir sig fastráðnum vikukaupsmönnum, sem eru á allt öðrum ráðningarkjörum en hafnarverkamenn. Þeir hafa jafnvel beitt fyrir sig ófélagsbundnum mönnum, og ekki hefur þeim brugðist stuðningur Jóns frekar en fyrri daginn. Af þessu mega menn sjá að margt skítverkið verður að vinna til að heita góður stéttasamvinnumaður, enda hefur hann (JH) lengi gengið í smiðju til forseta Alþýðusambandsins.

Að lokum þetta: Við vonum það heitt og innilega, hafnarverkamenn á Akureyri, að það verði ekki Jón H sem tekur ákvarðanir um framtíðarskipulag hafnarvinnu á Akureyri.

Hafnarverkamaður.

framhald af bls. 4.
Úrdráttur úr frumvarpinu.

32. gr. Miðlunartillaga telst felld, ef helmingur greiddra atkvæða hið minnsta er á móti henni, enda hafi ekki færri en helmingur atkvæðisbærra manna greitt atkvæði. Á móti hverjum einum af hundraði, sem tala greiddra atkvæða lækk ar niður fyrir 50%, þarf mótatkvæðafjöldinn að hækka um einn af hundraði til að fella tillöguna. Ef ekki hafa að minnsta kosti 25% atkvæðisbærra manna greitt atkvæði telst tillagan samþykkt. Þeir, sem vegna fjarveru eða veikinda, eru sannanlega útilokaðir frá að neyta atkvæðisréttar síns teljast ekki atkvæðisbærir í þessu sambandi.

Sáttasemjari sker úr öllum vafaatriðum, sem rísa kunna við atkvæðagreiðslur, sbr. þó 5. mgr. 29. gr. Er úrskurður hans endanlegur.

33. gr. Sáttasemjarar geta borið fram miðlunartillögu eins oft og þeim þurfa þykir.



## ... í Stuttu máli

VÍGBÚNAÐARKAPPHLAUP RISAVELDANNA HARÐNAR

Í samræmi við heimsyfirráðastefnu sína hafa risaveldin enn aukið og eflt hernaðarútgjöld sín og hernaðaruppbygginguna. Bandaríkin ákváðu nýlega að láta 100 milljónir dollara til að smíða svokallaðar "condor" kjarnorkueldflaugar. Skömmu áður hafði einokunarauðvaldið veitt fjórtánhundruð milljónum (1.400.000.000 $) dollara til smíði nýrra orustuskipa. Ekki hefur verið gefið upp hve miklu hefur verið varið til að "reynsluaka" nýrri tegund kjarnorkueldflaugar, "minuteman 3" en tilraunir með hana hafa staðið yfir í marga mánuði.
Frá Sovétríkjunum berast þær fréttir að 110 billjónum dollara (110.000.000.000.000 $) hafi verið varið til "eflingar hinum ýmsu greinum herafla Sovétríkjanna". Nýjar heimildi herma að unnið sé af kappi við að fjölga í kafbátaflotanum, og væntanleg sé ný týpa af "delta" kafbátnum, sem er risakafbátur sem gengur fyrir kjarnorku, og er fær um að bera miklar skotfærabirgðir af ýmsu tagi. Fréttir hafa líka borist af smíði 200 nýrra eldflauga sem flogið geta á milli heimsálfa og gert árásir á mörg skotmörk í einu. Smíði þeirra kostar billjónir rúblna. Líka hafa borist fréttir af smíði risasprengjuflugvéla af sama kyni og þær sem Bandaríkjamenn notuðu til árása á Víetnam.
(ATA)

USA: FJÖLDABARÁTTA TIL AÐ FRELSA GARY TYLER

Gary Tyler, 18 ára svartur nemandi var nýlega dæmdur til dauða fyrir morð sem hann framdi ekki, af al-hvítum kviðdómi sem byggði á fölskum vitnisburðum, lögregluþjónum, og Klu Klux Klan fordómum.
Í október 1974 umkringdi hvítur múgur skólabíl í Destrehan í Lousiana og grýtti svört skólabörn sem í bílnum voru. Allt í einu heyrðist skot, og 14 ára hvítur unglingur sem var í hópi æsingamannanna hneig dauður niður. Lögreglan sem fylgst hafði með grjótkastinu án þess að hafast að réðist nú til atlögu og handtók svörtu nemendurna sem í bílnum voru. Gary Tyler mótmælti meðferð lögreglunnar á nemendunum, og var hann þá þegar í stað handtekinn og ákærður fyrir morð.



Hann var dæmdur af hvítum kviðdómi sem samanstóð af ættingjum og nágrönnum unglingsins sem skotinn var. "Sönnunargögnin" gegn honum hafa reynst upplogin og tilbúin, en hvíta afturhaldið í Louisiana er ákveðið í að forma honum til að svala blóðþorsta sínum.
Nú hefur vaxið fram mikil breiðfylking í USA sem berst fyrir frelsi Tylers. Þessi fylking hefur tekið upp vígorð sem heimta að bundinn verði endir á kynþáttamisrétti og kúgun á minnihlutahópum í Bandaríkjunum. Haldnir hafa verið fjöldafundir sem sótt hafa þúsundir manna víða um Bandaríkin.
(The Call)

# Málgagn bandarískra marx-leninista vikublað

Fyrsta maí síðastliðinn byrjaði The Call, málgagn bandarísku Októbersamtakanna að koma út vikulega. Nú fara fram miklar umræður meðal bandarískra marxista-leninista um að stofna kommúnistaflokk á næstunni og sameina þar með alla marx-lenínísku hópana og samtökin þar í landi.

Við birtum hér nokkur brot úr leiðara fyrsta tölublaðs The Call sem vikublaðs:

"Fyrsta tölublað af vikublaðinu The Call hefur komið út á göturnar. The Call hefur nú verið gefið út sem mánaðarblað í tæp fjögur ár. Þennan tíma hefur byltingaröflunum í Bandaríkjunum vaxið mjög fiskur um hrygg....

Á þessum árum hafa þúsundir bardagamanna verkalýðsins byrjað nám í marx-lenínisma. Í dag er upplag The Call um 25.000 og með lesendafjölda í verksmiðjum og verkamannahverfum allt að helmingi meira en það. Á sama tíma fer fram mikil fræðileg barátta í kommúnísku hreyfingunni. Marx-lenínistar berjast nú fyrir byggingu nýs kommúnistaflokks og niðurbroti áhrifa Kommúnistaflokks USA, sem hefur í öllum grundvallaratriðum yfirgefið marxismann.

Þróunin síðustu árin mun leiða til stofnunar hins nýja flokks seinna á þessu ári. En jafnvel eftir flokksstofnunina mun blaðið halda áfram að vera nauðsynlegt verkfæri í eflingu einingar um byltingarsinnaða stefnu og til að færa út stefnu flokksins meðal verkafólks....

Með vikublaðinu er verkalýðsstéttin mun betur vopnuð til að berjast gegn hættulegum áróðri kapítalistanna, endurskoðunarsinnanna og verkalýðsaðalsins.

Október samtökin (marx-lenínistar) eru stolt af framlagi sínu til útgáfu byltingarsinnaðs vikublaðs. Við heitum á alla marx-lenínista, alla stéttvísa verkamenn og alla þá sem eru kúgaðir af auðvaldsskipulaginu að vera virkir í uppbyggingu vikublaðs verkalýðsstéttarinnar. Með slíka stoð mun okkur takast að sameina krafta okkar um eina byltingarsinnaða stefnu og til eins byltingarsinnaðs flokks."

The Call/GM.

framhald af forsíðu.
BURT MEÐ SKATTA Á LÁGLAUNAFÓLKI:

Nú nýverið lagið flokkurinn fram tillögu um breytingar á skattalögum og voru þær helstar að tekjuskattur skyldi afnuminn af launatekjum. En böggull fylgi skammrifi. Við skulum taka upp tilvitnun úr sunnudagsleiðara Alþýðublaðsins frá 8. ágúst sl. sem skrifaður er af Gylfa Þ. Gíslasyni:

"Alþýðuflokkurinn er eini stjórnmálaflokkurinn sem dregið hefur af þessu djarfa og skynsamlega ályktun. Hann hefur lagt til að afnema algerlega tekjuskatt til ríkisins af launatekjum en láta óbeinan skatt, fyrst söluskatt og síðar virðisaukaskatt koma í staðinn. Alþýðuflokkurinn vill m.ö.o. taka að skattleggja eyðsluna í stað þess að skattleggja tekjurnar".

Það hefði einhverntíma þótt saga til næsta bæjar að "alþýðuflokkur" tæki upp þá gömlu kröfu íhaldsins að óbeinir skattar kæmu í staðinn fyrir beina skatta. Vafalaust verkar það vel á ýmsa við fyrstu sýn að skattleggja beri eyðsluna fyrst og fremst. En hverjir koma verst út úr því? Auðvitað barnmargar alþýðufjölskyldur. Samkvæmt tillögum Alþýðuflokksins verður slíkt fólk að bera áfram þungann af útsvörum og öðrum gjöldum og í ofanálag skal söluskattur hækkaður sem leiðir til hækkunar á nauðsynjavörum. Nú borga láglaunamenn yfirleitt ekki háan tekjuskatt svo aukning óbeinna skatta kemur óhjákvæmilega til með að auka skattabyrðar alþýðunnar.

Hagsmunir ríkisvaldsins eru í fyrirrúmi

Tillögur Alþýðuflokksins miðast við hagsmuni ríkisvaldsins, ekki við hag alþýðunnar. Í stað þess að setja fram kröfur um afnám skatta á þurftartekjum og aukna skattleggingu á auðherrana sem því nemur, vill Alþýðuflokkurinn leggja einn tekjustofn ríkisins til hliðar aðeins til að ryma fyrir öðrum sem kæmi til með að koma enn harðar niður á launafólki.

En lítum nú nánar á rökfærslu Alþýðuflokksins fyrir tillögum sínum. Hann segir að tekjuskatt ur allra einstaklinga í landinu nemi nú 7.500 milljónum króna, en það séu um 90 hundraðshlutar greiddir af launþegum. Ef tekjuskattur á einstaklinga yrði afnuminn myndi það því þýða um 6.750 milljóna króna tap fyrir ríkissjóð. "...og þann tekjumissi yrði að sjálfsögðu að bæta ríkissjóði." Og Alþýðuflokkurinn sér enga aðra leið heldur en nýtt form skattkúgunar.

Það mætti minna Gylfa og co á að samkvæmt skattskrá er tekjutap ríkissjóðs vegna skattleysis auðfyrirtækja nú milli 7.5 og 9 milljarðar króna. Sú upphæð nemur ríflegri upphæð þess tekjuskatts sem heimtur er af öllum einstaklingum í landinu.

Hvers vegna leggur Alþýðuflokkurinn ekki einfaldlega til að innheimta þessa fjár komi í stað tekjuskatts einstaklinga, án nokkurar aukasköttunar á launafólki? Það kæmi í sama stað niður fyrir ríkið. Nei. Markmið Alþýðuflokksins er ekki að bæta kjör vinnandi fólks. Hjá honum skipa hagsmunir ríkisvalds auðherranna öndvegið.

Tillögur Kommúnistaflokksins

Kommúnistaflokkurinn hafnar öllum blekkingartilraunum Alþýðuflokksins og annarra afturhaldsflokka. Kjör alþýðunnar verða ekki bætt af Gylfa Þ og slíkum. Það er aðeins er alþýða þessa lands býst til baráttu að hún getum fengið einhverjar raunverulegar breytingar fram

Eins og er setjum við fram eftirfarandi kröfur sem eru hvað brýnastar í hagsmunabaráttunni:

1. Allir skattar verði afnumdir af þurftatekjum launafólks. Þegar sé miðað við raunverulegar þarfir ekki vísitölu eins og nú viðgengst.
2. Óbeinir skattar, svo sem söluskattur, verði afnumdir enda koma þeir ó réttlátast niður og bitna harðast á barnmörgum fjölskyldum.
3. Í stað skattakúgunar á alþýðunni krefjumst við að auðvaldið verði skattað. Komið sé í veg fyrir hin "löglegu" bókhaldssvik og felldar úr gildi reglur skattalaganna um fyrningarfrádrátt og vaxtafrádrátt í atvinnurekstri.

Við bendum jafnframt á að þessum kröfum verður ekki komið fram eftir leiðum þingræðisins og ekki með því að treyst sé á þingflokkana. Það er tómt mál að tala um að flokkar atvinnurekenda og þjóna þeirra í verkalýðshreyfingunni geri gangskör að því að leiðrétta misréttið.

Það er bein afleiðing af þjóðskipulaginu. Kerfið er til komið vegna gróðahagsmuna auðvaldsins. Það er aðeins með skeleggri baráttu gegn því sem við getum vænst einhverra breytinga. -/MVS

Framhald af forsíðu.

## Konur lægst launaða vinnuaflið

launaður og minnst metinn.

Vinnandi alþýðukonur verða að gera sér ljóst að misréttinu verður ekki aflétt með skipun Jafnréttisnefnda á Alþingi eða því umlíku. Slíkar nefndir kjákla aðeins í yfirborðinu en geta ekki komist fyrir rót vandamálsins sem felst í gerð þjóðfélagsins. Halda menn til að mynda að kynjamisrétti í atvinnulífinu verði rutt úr sögunni þótt kynjamismunur í auglýsingum verði bannaður?

Við skulum gera okkur ljóst að misréttið er til staðar vegna þess að það er eitt af stoðunum undir veldi atvinnurekenda í þjóðfélaginu.

-/mvs

# Kenningar Alþýðubandalagsins í hnotskurn

Alþýðubandalagið rekur mikinn áróður fyrir því að losa verði þjóðina við ríkisstjórn Geirs Hallgrímssonar. Við þá iðju Alþýðubandalagsins afhjúpast greinilega hið raunverulega eðli flokksstefnunnar - þe. að þrátt fyrir yfirlýsingar um sósíalisma ótt og títt, að þá á auðvaldsþjóðfélagið traust þess óskorað. Ætlunin er aldrei að hrófla við grunni þess.

Kjartan Ólafsson, ritstjóri Þjóðviljans, reit nýverið grein í blað sitt undir fyrirsögninni "Hákarlar viðskiptalífsins gegn hagsmunum alþýðu" (4. júlí). Sú grein er skýr vitnisburður um kratismann sem ræður ríkj um í Ab.

## Kjartan Ólafsson getur betur

KÓ segir: "Þessi mynd er alveg ljós: útflutningsvörur okkar hækka í verði um nær 20% í raunverulegum verðmætum, - samt á raungildi kaupsins hjá almennu launafólki að halda áfram að lækka" (undirstr. hh). Hér telur KÓ að auðvaldið sé þannig að það láti að stjórn svoframarlegasem alþýðan hafi merkt rétt við á síðasta kjörseðli sínum. Hann skýrir nefnilega út ástæðuna fyrir því að hlutur verkafólks batnar ekki þrátt fyrir hækkun á útflutningsvörum "okkar", með því að "það er ranglát skipting þjóðarauðs og þjóðararðs sem þessu veldur. Hákarlar viðskiptalífsins draga til sín alltof stóran hlut og beita ríkisvaldinu miskunnarlaust í sína þágu, þegar þess er kostur" (undirstr. hh). Takið eftir orðunum "þegar þess er kostur", þau þýða það, að svo lengi sem Alþýðubandalaginu er haldið frá ráðherrastólunum þá er þessi kostur fyrir hendi. KÓ ritstjóri segir hér berum orðum að þess sé kostur að stemma stigu við því að ríkisvald auðvaldsins, sem er skapað í þess þágu, sé notað fyrir hagsmuni þess. Ef alþýðan ber gæfu til að kjósa rétta menn (og þám. KÓ ritstjóra) þá munu umsvif hákarlanna minnka. KÓ telur að hákarlarnir "dragi til sín alltof stóran hlut þjóðarauðsins", hann er sem sagt til viðræðna við þá um hlutaskipti yfirleitt, það þarf bara að slússa fleiri krónum til annarra. Þessi orð KÓ eru ekkert annað en yfirlýsing hans um það, að auðvaldsþjóðfélagið sé nú ekki svo bölvað og það megi lengi bæta!

## Auðvaldið er vor ær og kýr

Ritstjórinn passar sig að fara aldrei út fyrir endimörk auðvaldsþjóðfélagsins, þótt hann ritstýri blaði sem kallar sig "málgagn sósíalisma".

Í lok greinarinnar segir hann: "Verkalýðshreyfingin á Íslandi á í höggi við illvígan andstæðing, þar sem er ríkisstjórn Geirs Hallgrímssonar. Við þær aðstæður, sem hér ríkja er nauðsyn öflugrar faglegarar baráttu ljós. Hætt er þó við, að þeir sigrar, sem á þeim vettvangi vinnast verði sjaldan annað en varnarsigrar meðan ekki eiga sér stað meiriháttar pólitískar breytingar.

Það er pólitískt afl verkalýðshreyfingarinnar, sem brýnast er að efla. Það er á Alþingi og í ríkisstjórn, sem endanleg úrslit ráðast um skiptingu þjóðartekna. Af biturri reynslu ættu menn að hafa lært þá lexíu nú" (undirstr. hh).

Hér er allt á sínum stað. Alþýðunni er talin trú um að Alþingi sé vettvangur kjarabaráttunnar númer eitt tvö og þrjú, þess vegna verður að kjósa rétta menn sem síðan mynda "alþýðustjórn" sem passar að hákarlar viðskiptalífsins fái ekki "alltof stóran hluta" - þetta eru taldar meiriháttar pólitískar breytingar. Tæplega getur nokkur raunverulegur sósíalisti talið það til "meiriháttar pólitískra breytinga" í þágu verkalýðsins, þegar tekist hefur að binda allt hans traust við sætanýtingu Alþýðubandalagsins á þingi - þvert á móti, bitur reynsla hefur kennt þá lexíu að það er aðeins þegar verkalýðurinn berst á grundvelli stéttabaráttunnar í verkalýðsfélögunum og öðrum fjöldahreyfingum sem meiriháttar pólitískar breytingar verða honum í hag. Og þá er hvorki staður né stund fyrir Alþýðubandalagið og kenningar þess.

-/hh

# Steinaldarvinnubrögð í loðnubræðslunum



Skömmu áður en loðnuvertíðin fyrir norðan hófst, birtist í Morgunblaðinu viðtal við stöðvarstjóra SR á Siglufirði. Hann fullyrti þá að þar væri allt tilbúið fyrir loðnumóttöku, vélar og þrær hefðu verið hreinsaðar og löndunaraðstæður bættar svo að nú væri hægt að skipa upp úr þremur skipum í einu. Þegar Guðmundur RE kom með fyrstu loðnuna til Siglufjarðar kom hins vegar í ljós að ekki var búið að ráða mannskap að verksmiðjunni og var annar undirbúningur eftir því. Einu löndunargræjur verksmiðjunnar voru ekki fullkomnari en það að þær náðu ekki nema niður í mitt skip. Því fór framanaf um helmingur loðnunnar beint í sjóinn. Var þá fenginn til eldgamall grjótmulningskrabbi. Þegar til kom reyndist hann svo stór að ekki var talið þorandi að láta hann síga niður í lestina. Var þá ákveðið að fjarlægja hann en ekki tókst betur til en svo, að festingar hans brustu og hann féll niður í lestina, og varð þá sjálfhætt við þessa löndunaraðferð, en karlarnir á Guðmundi látnir standa í loðnunni upp á mitti og moka henni einn og hálfan meter upp fyrir sig upp í silúr.

Verksmiðjan sjálf er þó enn frumstæðari. Slöngur og leiðslur hennar eru alla meira eða minna lekar og óþéttar þannig að um þriðjungur mjölsins tapast út í loftið. Stöðvarstjórinn hefur reynt að koma sökinni yfir á sjómenn og sakað þá um að sjóblanda loðnuna (þe. dæla henn of hratt úr nótinni). Saltleysi í mjölsýnum hefur þó algerlega afsannað þessar fullyrðingar hans.

Ríkisútvarpið og aðrir fjölmiðlar borgaranna hafa fjölyrt um átuinnihald loðnunnar og það hve loðnan valdi miklum erfiðleikum í vinnslu. Með þessari rógsherferð er reynt að koma því inn hjá alþýðu landsins hversu lélegt hráefni sjómenn komi með að landi. En á sama tíma veiða norskir og færeyskir sjómenn gífurlegt magn af loðnu fyrir norðan og norð-austan N-Noreg. Sú loðna inniheldur jafn mikla átu og íslenska loðnan en veldur þar engum erfiðleikum í vinnslu. Norskar bræðslur borguðu á síðustu vetrarvertíð í sumum tilfellum meira en þrisvar sinnum hærra verð en þær íslensku. Ástæðan er sú að norska auðvaldið, öfugt við það íslenska, hefur í gegnum árin notað hluta af gróða sínum til að endurvélvæða verksmiðjur sínar. Í sérhvert sinn sem íslenska auðvaldið hefur viljað auka gróðann þá hefur það "látið nægja" að pína niður fiskverð í stað þess að þróa áfram framleiðsluhættina. Þannig hefur það afhjúpað sinn aumingjaskap fyrir sjómönnum sem rotnandi afætuauðvalds sem er hemill á alla þróun í íslenskum sjávarútvegi.

Sú glórulausa heimska og stjórnleysi sem ræður ríkjum í bræðslunni á Siglufirði vekur upp spurningar um það hvort hér sé um að ræða embættisafglöp verksmiðjustjórans eða skipulagða skemmdarstarfsemi íslenska auðvaldsins. Í fljótu bragði mætti ætla að sökin sé verksmiðjustjórans eins, sem hefði aðeins viljað hirða laun sín án þess að vinna fyrir þeim. En þegar haft er í huga að ástand annarra verksmiðja Síldarbræðslu ríkisins er lítið skárra og að forstjórinn og auðkýfingurinn Sveinn Ben. drottnar yfir hverju fótmáli og gerðum undirsáta sinna, vakna grunsemdir um að úrelting verksmiðjanna sé fyrirfram ákveðin og skipulögð.

Loðnubræðslurnar hafa fyrir löngu bundist samtökum um

frh. bls. 4

# Saumastofa Hagkaups: Óhóflegt vinnuálag

Starfsstúlka á annarri saumastofu Hagkaups kom að máli við ritstjórn blaðsins og sagði okkur frá óhóflegu vinnuálagi og þrælaaga sem ríkir í saumastofunni. Að sögn hennar eru ákveðnar reglur sem gilda í vinnunni sem vafasamt er að samrýmist því sem almennt gildir hjá tímakaupsfólki og mánaðarkaupsfólki. T.d. um þessar reglur má nefna eftirfarandi: Bannað er að reykja eða fara í síma í vinnutíma og ekki er hægt að ná í stúlkurnar í síma. Það er sérstaklega tekið fram í reglunum að "af gefnu tilefni sé bannað að reykja á salernum." Svo mikið liggur við að ekkert tefji vinnuna að stúlkunum er bannað að tala saman. Að sögn stúlkunnar sneri samstarfsstúlka hennar sér að annarri stúlku til að segja við hana nokkur orð, en þá kom verkstjórinn með þjósti og spurði hvort vinnutíma þeirra væri lokið, og ef svo væri ekki væru þær vinsamlegast beðnar um að þegja.

Eins og á mörgum vinnustöðum sem eru undir Iðju-samningum er aðeins einu sinni 15 mín. í kaffi, og 20 mín í mat. Í saumastofunni er þetta mjög bagalegt því engin matsölustaður eða sjoppa er í nágrenninu svo ekki er um annað að ræða en að lifa á smurðu brauði alla daga.

Stúlkan spurði okkur hvort vinnualag sem þarna er um að ræða þekktist nema um akkorð væri að ræða, eða bónusa. Það mun vissulega verða athugað.

Fyrir vinnu sína þarna fá stúlkurnar aðeins um 60 þús. á mánuði, svo víst er að þær vinna fyrir hverri krónu og vel það.

En ritstjórn Stéttabaráttunnar hefur haft fréttir af því að vinnuálag sem þetta sé ekkert einsdæmi hjá Hagkaup, og við höfum líka fregnað af víðtækum þjófaleitum á starfsfólki í verslunum fyrirtækisins.

Við hefðum áhuga á að frétta meira frá starfsfólki Hagkaups eða starfsfólki áþekkra fyrirtækja um vinnuaðstöðu og fyrirkomulag.

-/ritstjórn.



## Áskriftaherferðin

| Svæði | Kvóti | (50% – 100%) |
|---|---|---|
| Akureyri | 25 | 11 |
| Egilsstaðir | 5 | 4 |
| Hafnarfjörður | 10 | 6 |
| Húsavík | 5 | 4 |
| Keflavík | 10 | 11 (110%) |
| Kópavogur | 12 | 12 |
| Neskaupstaður | 7 | 6 |
| Reykjavík | 80 | 63 |
| Suðurland | 15 | 15 |
| Vesturland | 10 | 15 150% |
| Norðurland | 5 | 13 (260%) |
| Austurland | 10 | 8 |
| Útlönd | 6 | 7 117% |
| Heildin | 200 | 175 |